# SAMEININGIN.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

---

FIMMTÁNDI ÁRGANGR:

Marz 1900—Febr. 1901.

---

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*



Útgáfunefnd: Jón Bjarnason, Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfr Marteinsson, Jónas A. Sigurðsson.

---

WINNIPEG.

PRENTUÐ Í PRENTSMIÐJU LÖGBERGS.

# EFNI.

# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

15. árg. WINNIPEG, MARZ 1900. Nr. 1.

## Jesús á innreið sinni til píslanna.

Sálmr út af Matt. 21, 1—9, eftir séra VALDEMAR BRIEM.

(Lag: Kirkja vors guðs er gamalt hús.)

1. Blessaðr Kristr, kom þú nú,
kristninni velkominn sértu;
konungs í nafni kemr þú,
konungr sjálfr og ertu.
Blessaðr komi sérhver sá,
sjálfum er guði kemr frá.
Hósanna' í heiminum öllum!

2. Ei kemr þú með skart og skraut;
skrúðgöngu má það ei kalla;
kemrðu' að líða kvöl og þraut,
krossgöngu fyrir oss alla.
Samt er það mesta sælu-för,
sorginni snýr í gleðikjör.
Hósanna' í himneskri gleði!

3. Ei kemr þú með völd og veg,
visdóms og frægðar að leita;
hógvær er för og fátœkleg,
feril þinn vilt þú ei skreyta.

Samt er það mesta frægðarför,
farin sem er, af mönnum gjör.
Hósanna' í himneskum ljóma!

4. Ei kemr þú með hraustan her,
hér þótt þú komir að stríða;
orrustan hvílir öll á þér,
einn viltu berjast og líða.
Samt er það mesta sigrför,
sigrað ei fékk þig dauðans hjör.
Hósanna' í himnanna ríki!

5. Blessuð sé, Kristr, koma þín
kristninnar gjörvallri hjörðu.
Unaðr, sœmd og sæla mín
sérhvert er spor þitt á jörðu.
Drottinn, þín ganga' í dauðans þraut
dýrðleg mér verðr sigrbraut.
Hósanna' á himnum og jörðu!

## Föstutíðin og passíusálmarnir.

Það sérstaka tímabil á kirkjuárinu, sem nú er yfir oss að líða, langafastan, hefir vafalaust í meðvitund trúaðs almennings þjóðar vorrar meiri helgiblæ yfir sér en nokkur önnur kirkjuárstíð. Og til þess eru gild og góð rök. Því föstutíðin þessi, sem eins og kunnugt er heldr á lofti endrminningunum um píslir og dauða frelsara vors Jesú Krists, er í rauninni móðir allra hinna kirkjuárstíðanna. Hún varð til fyrst allra. Píslarsagan drottins með hinum afar víðtœku hryggðarhugsunum, sem æfinlega hljóta út af henni að vakna í trúuðum lærisveinssálum, leiddi til þess mjög snemma í sögu kristinnar kirkju, að fólk safnaðanna tók í bókstaflegum skilningi að fasta, takmarkaði til stórra muna nautn líkamlegrar fœðu, eins og líka alla aðra jarðneska lífsnautn, á ári hverju, þegar leið að þeim tíma, er Jesús á holdsvistardögum

sínum var staddr í dýpstu og sárustu niðrlæging sinni. Út af gyðinglegri fyrirmynd komst þessi föstuhaldssiðr á í fornkristninni. Gyðingar töldu þann sið alveg sjálfsagðan, þegar allsherjar hryggðarefni var á ferðinni eða reis upp í huga þeirra frá liðnum tíðum. Og kristnaðir Gyðingar, sem einmitt voru frumstofn kristilegrar kirkju, fluttu sið þennan með sér inn í kirkjuna. Jesús hafði að vísu aldrei gefið lærisveinum sínum neitt föstuhaldsboð, en hinsvegar hafði hann ekki bannað þennan helgisið. Og svo hafði hann einnig sagt það fyrir, að sú tíð myndi koma, að þeir — rétt eins og af sjálfu sér — myndi fasta, — hin makalausa hryggðartíð, þá er brúðguminn yrði tekinn frá brúðkaupsgestunum, meistarinn frá lærisveinunum, — og þá myndi þeir ekki geta látið vera að fasta. Þar er af honum sjálfum skýrt bent til písla hans og krossdauða og út af þeim makalausu hryggðaratburðum sögð fyrir fasta í lífi lærisveinanna. Og að því, er lærisveinahópinn upphaflega snertir, þá er auðvitað, að spádómr þessi hefir bókstaflega rætzt. Því geta má nærri, að þeir hafa í sannleika fastað, sökum hryggðar verið ómóttœkilegir fyrir alla líkamlega nautn, tímann allan, sem leið frá því meistara þeirra var óaftrkallanlega hrundið út í píslir friðþægingarinnar þangað til hann var frá dauðum upp risinn og vissan um upprisu hans var rótföst orðin í sálum þeirra.

Föstutíðin næst á undan páskum var þá líka upphaflega í kristninni að eins fjörutíu klukkustundir, jafn-langr tími og menn samkvæmt guðspjallasögunni hugsuðu sér að liðið hefði frá krossfesting Jesú til upprisu hans. En mjög snemma fœrðist sú hryggðartíð út í kristnum söfnuðum, fyrst út yfir vikuna alla fyrir páska, dymbilvikuna, þar næst út yfir þrjár vikur, og loks yfir það tímabil allt, sem nú langa-lengi hjá oss Íslendingum hefir nefnt verið langafasta (eða sjöviknafasta). Eiginlega byrjaði þó föstutíð þessi ekki í reyndinni hjá forfeðrum vorum fyrr en með hinum svo nefnda öskudegi, miðvikudeginum næsta á eftir sunnudeginum í föstuinngang. Og alla sunnudagana á þessu tímabili voru menn undanþegnir föstuhaldi í bókstaflegum skilningi. Regluleg fasta stóð þannig yfir fjörutíu daga með tilliti til föstu frelsarans í eyðimörkinni

eftir skírnina. Nú kemr þessi gamli kirkjulegi föstusiðr ekki lengr til greina fyrir oss. En langafastan er oss sérstaklega heilög tíð eins fyrir því, eða ætti að minnsta kosti að vera það. Því aðal-atriðið í hinni fornkristnu föstuhugmynd, hinn skelfilegi þungi mannlegrar syndar og hinn óumræðilegi sársauki friðþægingarpísla Jesú, má aldrei falla í gleymsku og dá hjá lærisveinum hans.

Allar hinar kirkjuárstíðirnar hafa nú til forna smásaman fœðzt út af langaföstunni, aðventan, jólatíðin, epífaníutíðin (næst eftir þrettánda), páskatíðin og trínitatistíðin. Föstutíðin ræðr þeim öllum, ber ægishjálm yfir þær allar, stendr skýrar úthleypt í trúarmeðvitund kirkjulýðs vors en þær allar hinar. Og það er vel, að svo sé. Því þetta er í nákvæmu og fögru samrœmi við hinn kristilega trúarboðskap nýja testamentisins.

Það, sem postularnir lögðu aðal-áherzluna á, þegar þeir héldu á stað út í heiminn til þess að prédika Jesúm Krist og leggja lýði landanna undir konungsstjórn hans, var einmitt það, að hann hefði liðið píslir og dauða til þess að friðþægja fyrir syndir allra manna. ,,Eg ásetti mér að vita ekki annað en lærdóminn um Jesúm Krist og hann krossfestan''—segir Páll postuli (1. Kor. 2, 2). Eftir því er þá einnig vert að taka, að píslarsagan frelsarans er að vöxtum svo mikið meginmál í guðspjöllunum öllum, að ekki neitt líkt því ber á neinu öðru í þeim helgu söguritum eins og henni. Ef guðspjallamennirnir hefði eins nákvæmlega fœrt í letr æfisögu Jesú alla frá upphafi til enda eins og það, sem stendr í ritum þeirra um atburðina, er gjörðust á síðasta sólarhring æfi hans, þá myndi úr því hafa orðið áttatíu eins stór bindi og öll biblían. Það vitna þeir, sem út í æsar hafa rannsakað rúmið, sem píslarsagan tekr upp í samanburði við allt hitt söguefnið í guðspjöllunum. Og er þá auðsætt, á hvað þeir menn hafa lagt aðal-áherzluna í lærdómnum um Jesúm Krist. Skiljanlegt, að sú kirkjuárstíð, sem til varð í kristnum söfnuðum út af endrminningum hinnar miklu píslarsögu Jesú, yrði mönnum meiri og ógleymanlegri en allar aðrar tíðir. Og skiljanlegt sömuleiðis, að forfeðr vorir í trúnni hefði tilhneiging til að

fœra þá tíð meir og meir út, þangað til hún varð að hinni miklu hryggðartíð — langaföstunni.

Með þakklæti til drottins er þess að minnast, að vér Íslendingar eigum í þjóðernislegri eign vorri hið ágæta skáldskaparverk Hallgríms Pétrssonar — passíusálmana. Því þar er áreiðanlega eitthvert allra fegrsta blómið, sem nokkurn tíma hefir sprungið út í akrreit íslenzkra bókmennta. Píslarsaga Jesú er þar öll frá upphafi til enda leidd fram og út úr henni dregin slík gnótt dýrmætra lærdóma til huggunar og áminningar, að yndi er um að hugsa. Og mun óhætt að fullyrða, að ekkert kristið skáld hefir komizt lengra en Hallgrímr, þar sem hann í passíusálmunum nær sínum hæstu og dýpstu tónum. Sársauki syndameðvitundarinnar og iðrunartilfinningarinnar er þar framúrskarandi, og að sama skapi fögnuðr trúarinnar út af því makalausa, sem guðs sonr hefir lagt í sölurnar fyrir oss, synduga menn. Hjartað viknar ósjálfrátt, þegar maðr heyrir boðskapinn, sem borinn er fram í passíusálmunum, eins og þar mjög víða er frá honum gengið. Svona getr enginn kveðið nema sá, sem sjálfr hefir persónulega prófað þessi meginsannindi kristindómsins í sínu eigin lífi. Enda tekr Hallgrímr það beinlínis fram í formála passíusálmanna, að hann hafi sér ,,í brjósti geymt langvaranlega íhugun Jesú píslarminningar" áðr en hann nú beri þær hugsanir fram fyrir kristinn almenning þjóðar sinnar í þessu sálmaverki. Passíusálmarnir eru sérstaklega orktir fyrir langaföstutíðina. Föstuhugmyndin gamla hefir leitt þá fram undan hjartarótum hins göfuga trúarskálds. En í annan stað hafa þeir fremr en nokkur önnur íslenzk guðsorðabók eða nokkurt annað atvik orðið til þess að halda uppi hefðarhelgi föstutíðarinnar hjá íslenzkum kirkjulýð. Því allt fram á þennan síðasta mannsaldr mátti svo að orði kveða, að passíusálmarnir væri sungnir við húslestra eða á annan hátt um hönd hafðir á hverju íslenzku heimili dag eftir dag allt frá föstuinngangi til föstuloka. Og þó að þeir þyki nú ekki hentugir til söngs við slíkar heimilis-guðsþjónustur, þar sem þær enn tíðkast, að því leyti, að þeir eru yfir höfuð svo langir, þá ætti menn eins fyrir því að nota sér þá til trúarlegrar uppbyggingar, hafa þá kost-

gæfilega um hönd með því að lesa þá, bæði einslega og upphátt fyrir öllu fólki hinna ýmsu heimila, nú sérstaklega á langaföstunni. Einn sálm á dag frá því á laugardagskvöld í föstuinngang allt fram að páskadegi. Á þann hátt yrði æskulýðrinn handgenginn þessari beztu íslenzku guðsorðabók, sem til er. Og þar með trygging fengin fyrir því, að píslarminning Jesú næði sér miklu betr en nú gjörist almennt niðri í trúarmeðvitund fólks vors og flyttist með endrnýjuðum krafti frá oss til komandi kynslóða.

## Frá kirkjuþingi „General Councils“.

Eftir séra N. Stgr. Þorláksson.

III.

Mér var það hugvekja, er eg heyrði dr. Weidner skýra frá því, hvílíkr fjöldi ungra lúterskra námsmanna stunduðu nám sitt við æðri hérlendar menntastofnanir utan lútersku kirkjunnar, án þess að lúterska kirkjan gjörði eiginlega nokkuð fyrir þá, til þess þeir lenti ekki út úr henni. Mér fannst það ætti að vera hverjum ljóst, sem um það hugsaði, hvaða andleg blóðtaka það er fyrir lútersku kirkjuna, ef hún missir hópum saman unga námsfólkið, er sannarlega *ætti* að vera og gæti líka verið hennar bezta blóð.

Eg fór þá að hugsa um námfúsu ungmennin hjá oss og um það, hvað fyrir þau væri gjört þeirra sjálfra vegna, þjóðar vorrar vegna og kirkju, svo þau misstist ekki. Fannst mér, að vér hugsa svo lítið um það, hvað þjóðarlega og kirkjulega hljóti að liggja fyrir oss alveg eðlilega samkvæmt ófrávíkjanlegu andlegu lögmáli, ef ekkert er gjört. Námsfólkið unga, sem ætti að vera vort bezta þjóðernislega og kirkjulega blóð, flyzt út úr kirkjunni og verðr á móti oss, ef mennta-áhrifin, sem móta þau, eru í þá áttina. Það er hreinasta fásinna að búast við neinu öðru, ekkert annað en íslenzk forlagatrú eða hjátrú. Nú er sú tilhugsun oss einkar kær, að þjóð vor og kirkja hér eigi fyrir höndum heillavænlega framtíð. En væri það þá ekki frámunalega fáránlegt hugsunarleysi, eða annað

verra, ef vér létum byggða-ríg eða annað jafn-ómannlegt spilla fyrir skólamáli voru og um leið spilla fyrir framtíðarheill vorri þjóðarlegri og kirkjulegri, og mannskemma oss sjálfa, sem nú erum uppi og höfum með höndum málið, og um leið framtíðarvelferð vora, með því að reisa oss minnisvarða framtíðar-bölvunar og böls, í stað framtíðar-hamingju og heilla. Og þegar eg hugsaði til þeirra landa minna, sem kynni að láta persónulegar óskir sínar, *það einmitt, sem þeir sæi helzt, hvað sjálfa þá snertir*, spilla fyrir skólamáli voru, hinu stóra velferðarmáli voru, þá varð mér alveg ósjálfrátt í nöp til þeirra, án nokkurs tillits til þess, hvort þeir væri „norðan línu eða sunnan". Og þóttist eg sjá glöggt, að þeir menn yrði sér óvitandi og óviljandi fjandmenn kirkju sinnar og þjóðar. — Þetta var hugsunin, sem greip mig, þegar eg hlustaði á dr. Weidner, og hefir hún ekki sleppt mér síðan. En eg óska þess og ætla að vona, að enginn af kirkjufólki voru að minnsta kosti verði svo ill-vitr, að hann láti nokkuð persónulegt spilla fyrir málinu.

Í tilefni af kvöldsamkomunum, sem eg gat um, datt mér í hug, hve gagnlegt það gæti orðið fyrir oss á kirkjuþingum vorum, ef vér notuðum á svipaðan hátt síðari hluta daganna eða kvöldin, eftir því, sem stœði á fyrir fólki, þar sem þing væri haldið. Myndi það ekki lengja neitt þingtímann, ef þing væri betr undirbúin en verið hefir af hálfu standandi nefnda, en gjöra þingin uppbyggilegri og blessunarríkari.

Sunnudagskvöldið, sem við séra Björn vorum í Chicago, höfðum við guðsþjónustu með löndum okkar þar í einu sunnudagsskóla-herbergi í kirkju dr. Roths. Var dálítill hópur þar saman kominn. Nógu margir Íslendingar eru þar í bœnum til þess að mynda ofr lítinn söfnuð, þótt þeir búi œði dreift, ef nokkur prestur væri þar íslenzkr, er séð gæti um þá og safnað þeim saman. Hefði séra Stefán Pálsson átt að vera kallaðr til að þjóna ensk-lúterskum söfnuði í Chicago heldr en í New York-ríki ; því þá hefði Íslendingar þar um leið getað notið góðs af og enda líka Íslendingar úti á Washington-eyjunni. Er ekki ólíklegt, að það hefði getað orðið, ef vér, prestar kirkjufélagsins, hefðum verið hugsunarsamari.

þingi var slitið laust eftir hádegi 4. Okt., og hafði það þá staðið yfir á 7. dag.

Um morguninn þann dag lögðum við séra Björn aftr á stað frá Chicago, ánœgðir með að hafa fengið að sitja á þessu þingi *G. C.s.* Komum við við í Milwaukee, Wis., aðallega til þess að hitta séra Hans B. Thorgrímsen, sem er þar prestr norsks safnaðar. Tók hann ljómandi vel á móti okkr. Er Íslendingrinn í honum enn þá sterkastr, og kom það í ljós, að hann kysi heldr að vera á meðal landa sinna en Norðmanna. Viðstaðan hjá honum var of stutt, því seint um kvöldið þurftum við á stað, séra Björn í missíónarferð til Duluth, en eg áleiðis heim. Tók eg að vísu krók á mig og fór til Minneota, dvaldi þar fram yfir þá helgi og embættaði fyrir séra Björn á sunnudaginn í Minneota og Marshall. Var mér ágætlega tekið á báðum stöðum og margt fólk saman komið við báðar guðsþjónusturnar. Stór ánœgja var mér að hitta góða vini og gamalt safnaðarfólk.

---

LEIÐRÉTTING:—Í greinarpartinum, sem stendr í Janúarnúmerinu, gat eg þess, að *G. C.* héldi þing vanalega annað hvert ár; en það hefir ekki verið nema síðan 1889. Áðr var þing haldið á hverju ári, nema að eins í eitt skifti.

---

## Missíónarferð til Alberta.

Eftir séra RÚNÓLF MARTEINSSON.

---

Í ferð þessari var eg nærri tvo mánuði. Á leiðinni vestr stóð eg við nokkra daga í Brandon og prédikaði í íslenzku kirkjunni þar sunnudaginn 17. Des. síðastliðinn. Tóku Brandon-Íslendingar mér mjög vel, og þykir þeim mjög vænt um, þegar prestar kirkjufélagsins koma þangað til að prédika. Eg hlustaði á kennslu í sunnudagssólanum þann sunnudag, og gazt mér vel að því, sem fram fór. Börnin voru þá að búa undir jólatrés-samkomu. Þau kusu nefnd til að sjá um tréð og prýða kirkjuna. Allt þetta fór samt fram undir umsjón forstöðumannsins, hr. Gunnlaugs E. Gunnlaugssonar.

Áðr hafði verið haft meira eða minna af ensku á þessum

samkomum. Í þetta skifti var ákveðið, að láta allt fara fram á íslenzku. Eg tók eftir, að sumum börnunum lá við að gjöra uppreisn út af þessu ; en þó felldu þau sig við að hafa þetta þannig. Samt tók eg eftir því, meir en víðast hvar annarsstaðar meðal Íslendinga, að börnin, sem vaxa þar upp, eru orðin ákaflega ensk, tala miklu meira ensku en íslenzku og eru yfir höfuð með heldr litlum íslenzkum blæ. Þetta stafar eflaust einkum af því, hvað Íslendingar eru fáir í bœnum. Mér þótti samt vænt um börnin. Þau mynduðu söngflokk kirkjunnar, og í þeirra hópi voru tvær stúlkur, sem á víxl spiluðu á orgelið.

Kirkjufélagið ætti að sinna þessum litla hópi í Brandon eins mikið og mögulegt er.

Meðan eg dvaldi þar var eg hjá hr. Ara Egilssyni.

Að morgni hins 20. Des. kom eg til Calgary, hitti þar nokkra Íslendinga og hélt áfram daginn eftir með Edmontonbrautinni norðr til Innisfail. Þar hitti eg einn af ungu mönnunum úr íslenzku nýlendunni, Helga Bardal, er var rétt að leggja á stað heim til sín, þegar eg kom. Eg fékk keyrslu með honum og komst samdœgrs til Jóhanns Björnssonar, sem er póstafgreiðslumaðr á Tindastóls-pósthúsi. Í húsi hans hafði eg aðal-aðsetrsstað minn meðan eg dvaldi í byggðinni.

Á aðfangadagskvöld jóla var jólatrés-samkoma að Tindastól, og hafði kvenfélag byggðarinnar, er nefnist ,,Vonin'', komið henni á. Hr. Jón Kjærnesteð stýrði samkomunni. Börnin sungu nokkra jólasálma. Hr. Kjærnesteð flutti lipra rœðu um jólatréð og þýðing þess. Gjöfum var útbýtt og menn óskuðu hver öðrum gleðilegra jóla. Í sambandi við samkomuna flutti eg prédikun og talaði til þeirra, sem komu, um tilgang minn með því að koma í byggðina og fyrirætlanir mínar meðan eg dveldi þar.

Á jóladaginn flutti eg guðsþjónustur í tveimr öðrum stöðum byggðarinnar, í Hóla-skólahúsi og í húsi Jóns Pétrssonar. Voru þær guðsþjónustur báðar fámennar, og þótti mér það slæmt með hina fyrri ; en um hina síðari er það að segja, að í þeim parti byggðarinnar er fátt af Íslendingum og því ekki við mörgum að búast. En við þessa seinni guðs-

þjónustu var einn Englendingr við staddr. Hann skildi ekkert orð í íslenzku ; en hann sagði mér, að sér hefði fundizt það svo ójólalegt að sitja heima og sœkja enga guðsþjónustu ; og óskaði eg, að þeir landar mínir, sem ekki sóttu neina jólaguðsþjónustu, hefði haft sömu tilfinning.

það kom oftar fyrir, að enskumælandi menn sóttu guðsþjónustur mínar, og í eitt skifti gaf eg þeim útdrátt úr prédikaninni á ensku. Yfir höfuð virðist vera gott samkomulag með Íslendingum og nágrönnum þeirra af öðrum þjóðflokkum.

Hér eins og annarsstaðar ber á samtakaleysi vor Íslendinga. Landið er nefnilega að verða upptekið af annarra þjóða mönnum. Mikill innflutningr hefir verið inn í landssvæðið meðfram Edmonton-brautinni, þar sem gott, ónumið land var til. Mikið af löndum hefir þannig í sumar verið tekið fyrir austan þessa Íslendinga-byggð og eigi all-lítið jafnvel inni í byggðinni sjálfri. Hví erum vér Íslendingar að dreifast út um alla heimsálfuna, allt af að leita oss að landi á nýjum svæðum, í staðinn fyrir hið eina skynsamlega, að gefa stœrri byggðunum, sem þegar eru myndaðar, fyrsta tœkifœrið og leita fyrst fyrir oss þar? Vér eyðileggjum vort þjóðerni og vorn þjóðernislega félagsskap með því að dreifast svona. þetta kemr brátt í ljós, þegar maðr fer að tala um safnaðarmyndun í hinum smærri byggðum. þá er manni undir eins sagt: ,,þetta getum við ekki; við erum svo fáir.'' En hvers vegna ekki fleiri? þarna í Alberta hefði getað verið stór og blómleg byggð, ef landar hefði sinnt henni betr. Hún getr meira að segja enn orðið stór ; því mikið er til af ónumdu landi fyrir vestan byggðina.

Ekki verðr annað sagt en að í veraldlegum efnum líði Íslendingum þar heldur vel.

Hinn 27. Des. byrjaði eg að lesa með börnum og ungmennum. Í því er mikið verk til að vinna í byggðinni. Menn eru búnir að vera þar úti ein 9—12 ár, og á þeim tíma hafa nærri engin ungmenni úr byggðinni verið fermd, að undanskildum fáeinum, er biskup ensku kirkjunnar í Calgary fermdi fyrir nokkrum árum. Á þessum tíma hefir mjög lítil kristindómsuppfrœðsla átt sér stað. Sumt af þessu unga fólki er

vaxið upp og komið undir þrítugt, ófermt. Margt af því brestr kjark eða vilja til að fara nú nokkuð að sinna kristilegri uppfrœðslu; því finnst það, samkvæmt íslenzkum hugsunarhætti, orðið of gamalt, og, ef til vill, vex því í augum það erviði, sem því er samfara að uppfrœðast í kristindómi. Því miðr eru sumir foreldrarnir ekki eins hvetjandi í þessu tilliti eins og þeir ætti að vera.

Með öllu móti reyndi eg að vekja fólk til alvarlegrar umhugsunar um þetta mál og útrýma þeim rammskakka íslenzka hugsunarhætti, að það sé skömm að fermast, að játa trú sína á frelsarann, þegar maðr sé orðinn gamall; en á suma hafði það engin sjáanleg áhrif.

Samt var margt af unga fólkinu, sem til mín kom til uppfrœðslu, eldra en fjórtán ára, og hefi eg um allflest börnin og ungmennin, sem til mín komu, gott eitt að segja, að því, er framkomu og ástundan þeirra snerti meðan eg var með þeim; en ekki er því að neita, að sum þeirra voru mjög fáfróð í öllu kristilegu. Ekki get eg heldr sagt um það, hvaða áhrif þessar stundir, sem við vorum saman, höfðu á trúarlíf þeirra, hvort nokkur neisti sannrar og lifandi trúar á frelsarann kviknaði í brjóstum þeirra, hvort nokkur alvarleg hugsun um sálarástand þeirra vaknaði hjá þeim eða ekki. Guð einn og þau sjálf hvert fyrir sig vita það.

Til þess að gjöra byggðarmönnum sem hœgast fyrir las eg með ungmennum á þremr stöðum, og var eg sinn daginn í hverjum staðnum og notaði vanalega alla virku daga vikunnar til þess. Þetta útheimti talsvert ferðalag; því þessir staðir voru 6—10 mílur hver frá öðrum. Með það hjálpuðu byggðarmenn mér mjög vel. Stundum keyrðu þeir mig; en oftast hafði eg reiðhest og fór þannig ferða minna. Hr. Jóhann Björnsson lánaði mér um tíma reiðhest, og allan seinni hlutann af dvöl minni í byggðinni hafði eg hest, sem hr. Jósef Stefánsson lánaði mér, og fékk eg aldrei að ganga nokkurn spöl á þessum ferðum mínum. Þetta veittu þeir mér endrgjaldslaust.

Ferðirnar um byggðina voru mjög skemmtilegar. Fólkið var æfinlega gott að heimœkja. Undantekningarlaust tók

hver einasti maðr í byggðinni vel á móti mér, er eg kom að heimsœkja þá, og yfir höfuð vildu allir greiða götu mína eftir því, sem þeim var unnt. þeir, sem eg var mest hjá, er eg var við barnaspurningar, eru Jóhann Björnsson, Jón Jónsson, Jón Pétrsson og Stephan G. Stephansson, skáldið.

Útsýni í byggðinni er líka víða fagrt. Landslagi hennar er svo háttað, að syðri hlutinn er smáöldumynduð slétta. þar norðr af myndast hár og breiðr ás, sem nefndr er „Fellið". Nokkrir Íslendingar byggja austan í Fellinu og austan við það. Einar þrjár mílur fyrir vestan Fellið rennr á til suðrs, sem nefnist Medicine River. Meðfram henni er hólótt landslag. þar er margt af Íslendingum. þegar sunnar dregr, beygir áin til austrs og rennr fyrir sunnan Íslendingabyggðina á sléttunni. Úr allri byggðinni, en einkum þó af Fellinu, sést vel til Klettafjallanna. það er einkennilegt að sjá, með hve margvíslegum myndum þau birtast manni. Stundum eru þau blá eins og skýin, sem þeim eru áföst, stundum fannhvít, stundum með miklum skuggum, svo þau lyftast upp eins og draugslegar vofur úr jafnsléttunni, stundum drungaleg, stundum björt, en allt af tignarleg.

Í allt flutti eg tólf guðsþjónustur í byggðinni og skírði ellefu börn.

Meðan eg dvaldi í byggðinni komst á fót sunnudagsskóli, sem haldinn er í Hóla-skólahúsi. Hr. Jón Kjærnesteð stendr fyrir honum ; en yfir höfuð eru ógurleg vandræði að fá nokkurn til að kenna þar á sunnudagsskóla.

Síðasta guðsþjónustan í byggðinni fór fram í Hóla-skólahúsi, sunnudaginn 4. Febrúar. það átti að verða altarisguðsþjónusta. það var búið að auglýsa hana vel í öllum pörtum byggðarinnar. Veðr, sem hér um bil allan þann tíma, er eg dvaldi þar, var aðdáanlega fagrt og skemmtilegt, var þennan dag heldr kalt og skuggalegt. Samt var skólahúsið fullt af fólki. Ýmsir, sem langt áttu eða höfðu ungbörn, gátu þó af þessu ekki komið. Hálf-hræddr og skjálfandi gekk eg fram fyrir fólkið þennan dag. Mig langaði sérstaklega til að guðs orð hefði áhrif á fólkið við þetta tœkifœri. Áðr en guðsþjónustan byrjaði bað eg þá, sem ætluðu

að vera til altaris, að gefa sig fram. Enginn hreyfði sig; enginn sagði neitt. Eg ítrekaði þetta aftr, en ekki einn einasti gaf sig fram. Eg fór að hugsa: Hvort er nú þetta ástand fólkinu þarna eða oss kirkjufélagsmönnum að kenna? Líklega hvorttveggja. Hvað höfum vér verið að gjöra, að vér höfum ekkert sinnt þessu fólki allan þennan tíma, að vér höfum látið akr guðs komast í þessa skelfilegu órœkt?

Til þess að lýsa rétt verð eg að segja, að ýmsir höfðu hugsað sér að vera til altaris, þar á meðal ýmsar gamlar konur, sem ekki gátu komið þennan dag vegna veðrsins; en svo voru ýmsir fleiri, sem höfðu hugsað sér hið sama, en komu sér ekki að því þarna í skólahúsinu. Þeim fannst allt svo ókirkjulegt þarna í kringum sig. Og svo var annað. Hver fyrir sig hélt, að einhver annar myndi verða til altaris, en engum datt í hug, að allir myndi svona fara, að alla myndi á þessu augnabliki bresta kjark til að vitna um frelsara sinn á þessum stað. Og svo veit eg, að menn voru óánœgðir við sjálfa sig á eftir.

Sunnudaginn 21. Jan. var haldinn fundr í Tindastólsskólahúsi eftir guðsþjónustu til undirbúnings safnaðarmyndunar. Var þar samþykkt að stofna söfnuð og nefnd kosin til að semja lagafrumvarp. Þriðjudaginn 30. Jan. var svo haldinn annar fundr í húsi hr. Ófeigs Sigurðssonar. Þá var samþykkt lagafrumvarp nefndarinnar með litlum breytingum; en frumvarp nefndarinnar var mestmegnis safnaðarlaga-frumvarp kirkjufélagsins. Áframhald af þeim fundi var svo haft í húsi hr. Jóhanns Björnssonar mánudaginn 5. Febr., og þá kosnir þessir safnaðarfulltrúar: Jóhann Björnsson, Kristján Jónsson, Gísli Eiríksson, Jón Pétrsson, Ófeigr Sigurðsson. Við þetta sama tœkifœri komu menn líka saman til að skemmta sér, og höfðu konur í söfnuðinum stofnað til þess samkvæmis.

Daginn eftir lagði eg á stað áleiðis til Calgary. Með hlýjum þakklætis-tilfinningum skildi eg við byggðina. Guð blessi hinn unga söfnuð!

Sama kvöldið kom eg til hr. Gunnlaugs Sigurðssonar í Calgary og hélt guðsþjónustu í húsi hans. Daginn eftir var

eg þar í bœnum og heimsótti ýmsa landa. Íslendingar eru fáir þar, en góðir heim að sœkja og vingjarnlegir í viðmóti. Kl. 1 f. h. 8. Febr. steig eg upp í lestina til Winnipeg. Margar endrminningar frá ferðinni komu fram í huga minn, og eg dirfðist að biðja guð að blessa þessa ferð og veita henni einhvern árangr.



Trúarsamtalsfundir voru haldnir í þremr kirkjum tilheyrandi söfnuðum kirkjufélagsins íslenzka nálægt næstsíðustu mánaðamótum: — í kirkju Selkirk-safnaðar miðvikudaginn 31. Janúar að kvöldi, í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg föstudagskvöldið 2. Febrúar, og í kirkju Argyle-safnaðanna (Fríkirkjusafnaðar og Frelsissafnaðar) þriðjudaginn 6. Febrúar. — Á Selkirk-fundinum var umtalsefnið *kristilegt barnauppeldi*, og hélt séra Jón Bjarnason þar inngangsrœðuna. Sá fundr var fremr vel sóttr; en prestar voru þar að eins tveir: séra Björn B. Jónsson og sá, er áðr var nefndr.— Á fundinum í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg, sem var öllu lakar sóttr, var talað um *bœnina*. Inngangsrœðuna um það mál hélt séra Björn. Auk hans og séra J. Bj. var af prestum viðstaddr á þeim fundi séra Jónas A. Sigurðsson. Var við því búizt, að hann yrði líka á fundinum í Selkirk; en það fórst fyrir sökum þess, að þann dag, sem hann kom norðr til Winnipeg, 31. Jan., varð járnbrautarlestin að sunnan svo mjög á eftir réttum tíma með hann, að honum var ekki unnt eftir það að ná til Selkirk um kvöldið. Eftir helgina næstu fóru hinir þrír prestar vestr til Argyle til þess að vera á samtalsfundinum þar ásamt séra Jóni J. Clemens, presti þeirra safnaða. Umtalsefnið á þeim fundi var *aftrhvarfið*, og hélt séra Jónas inngangsrœðu um það mál. Mátti fundrinn heita mjög vel sóttr, einkum þegar tekið er tillit til þess, að þann dag var býsna harðr snjóbylr. Hluttaka af hálfu leikmanna þar var og í betra lagi eftir því, sem vér höfum átt að venjast við slík tœkifœri.



**Tímarit norðlenzku prestanna.**

Sumarið 1898 héldu 16 prestar úr Skagafirði og Húnaþingi frjálsan kirkjumálafund í Sauðárkrók. Og er dálítið skýrt frá því fundarhaldi í „Sam.“ XIII, 8 (Okt. ’98). Á þeim fundi var meðal annars ályktað, að reynt skyldi að fá presta bæði í þeim prófastsdœmum og sömuleiðis í Eyjafirði og Þingeyjarsýslu til að ganga í lögbundið félag, sem árlega héldi einn aðalfund að sumarlagi. Samkvæmt þessari ályktan héldu 22 norðlenzkir prestar aftr fund á Akreyri í sumar, sem leið, 26. og 27. Júní,

úr öllum prófastsdœmum norðrlandsins nema Norðr-Þingeyjar-prófastsdœmi. Prestar þess héraðs höfðu ekki enn gengið í félagsskapinn, en búizt var við, að líka þeir yrði með framvegis. Á þessum síðara fundi var félagsskapr norðlenzku prestanna fullmyndaðr og honum gefið nafn: „Félag presta í hinu forna Hólastifti". Forgöngumaðr samtakanna er séra Hjörleifr Einarsson, prófastr Húnvetninga.

Nú liggja fyrir oss prentuð „Tíðindi" prestafélags þessa, útgefin á Akreyri seint á næstliðnu ári, 66 bls. í 8 bl. broti auk titilblaðs. Efni bœklingsins er þetta: 1. Fundargjörð — ágrip af gjörðabók Akreyrarfundarins. 2. Kröfur nútímans til prestanna — fyrirlestr eftir séra Sófonías Halldórsson, prófast í Skagafirði, er hann flutti á þessum sama fundi til inngangs umrœðna um það mál. 3. Hvernig eigum vér að prédika? — líka fyrirlestr, fluttr á Akreyrarfundinum af séra Jónasi Jónassyni, prófasti Eyfirðinga. 4. Hólastifti — söngljóð eftir séra Mattías Jokkumsson; og segir hann sjálfr, að þau ljóð eigi að vera *minnisstef* hinnar horfnu Hóladýrðar.

Gjörðabókin skýrir frá málum þeim, sem tekin voru til umrœðu á fundinum. Fyrst var talað um *messur* og *messuföll*. (Orðið „messa" er leiðinlegt í munni fólks með evangeliskri kristinni trú og ætti sem fyrst að deyja út af hjá oss Íslendingum.) Þar næst var málið um *kröfur nútímans til prestanna*. Þriðja málið er *afstaða presta til bindindishreyfinga*. *Vínsölubannið* var hið fjórða; en ekki eitt orð af því, sem um það var sagt, sést í fundarskýrslunni. *Kjör presta* var hið fimmta. Sjötta málið var *helgisiðir í kirkju og utan kirkju*. Sjöunda: *Hvernig eiga prestar að prédika?* Áttunda: *prestafélagið*—þetta nýja norðlenzka. Níunda: *prestsekknasjóðrinn*. Tíunda: *fríkirkjumálið*.

Fundarskýrslan er mjög ófullkomin. Um fyrsta málið („messuföllin") flutti séra Hjörleifr fyrirlestr, og má sjá, að sumum prestunum hefir þótt ástandið í íslenzku kirkjunni, eftir því, sem þar kom út, verða „nokkuð svart". Og að líkindum hefir sú tilfinning ráðið því, að enginn fundarmanna kemr með tillögu um það, að sá fyrirlestr sé prentaðr í „Tíðindunum". Í umrœðunum um afstöðu presta til bindindishreyfinga er merkilegt, að enginn þeirra, er tóku til máls, skuli—eftir fundarskýrslunni að dœma—hafa minnt á dœmi Jesú Krists eða postulanna eða kenning guðs orðs yfir höfuð í sambandi við það mál. Ágrip aðalrœðunnar um kjör presta er svo skrítið, að vér getum ekki stillt oss um að tilfœra það hér orðrétt: „Allt, sem lífsanda dregr, hefir þrjár kröfur: a) Húsaskjól. Prestar yfir höfuð eigi vel settir í því efni; þau hús, sem þeir hafa, alls eigi boðleg; þeir geta naumast lifað í þeim. b) Fœði. Það þurfa menn líka. Nú er því svo varið, að tekjur eru víða litlar og gjaldast oft seint og með vanskilum. c) Hreyfingar. Prestrinn þarf að hafa hollar hreyfingar. En hann hefir þá sérstaklega óhollu hreyfing, að þurfa að innheimta tekjur sínar. Landssjóðr á að sjá prestum fyrir skýli og fœði og losa þá við innheimtuna." Þennan vísindalega kapítula flutti séra Eyjólfr Kolbeins. Við umrœðurnar um helgisiðamálið gat séra Sófonías þess, að hann vildi helzt, að „altarisganga fœri fram við *ljós* að kvöldi dags í sem mestri líking við það, er hún var innsett." Þetta er fremr ópraktiskt í því landi, þar sem kvöldguðsþjónustur í kirkjunum eru yfir höfuð taldar ómögulegar. Séra Mattías minnir á það, þegar um kirkjusönginn er að rœða, að hann hafi verið við „messu" hjá Spurgeon, þar sem tíu þúsundir manna hafi sungið einum rómi. Þar er víst krítað nokkuð liðugt. — Á fríkirkjumálinu er sýnilega lítill eða enginn áhugi meðal norðlenzku prestanna enn eftir því, sem kemr fram í skýrslunni um Akreyrarfundinn.

Í hinum tveim fyrirlestrum, sem prentaðir hafa verið í „Tíðindum" norðlenzka prestafélagsins er eins og við mátti búast margt gott og satt. En sumt er þó varhugavert í fyrirlestri séra Sófoníasar, eins og t. a. m. þar sem hann vill halda því fram, „að leiðirnar að guðs hjarta sé alveg óteljandi", en þótt „sumar sé greiðari en sumar", en „ein leiðin sé allra inndælust". Þessu til samanburðar og styrkingar eru tilfœrð

orð Krists: ,,Eg em vegrinn." Flestir, sem fastir eru í trúnni, myndi fremr með þessum orðum vilja sanna, að til sé að eins ein leið að hjarta guðs, þessi eina: Jesús Kristr. Í frjálslyndiskröfu sinni fer séra Sòfonías, að því, er oss virðist, lengra en Jesús Kristr og postularnir. Séra Jónas talar skýrar um kristindóminn, heldr sér yfir höfuð fast við miðpunkt kristinnar trúar og endar mál sitt með skáldskap í ljóðum.

Söngljòð séra Mattíasar (,,Hòlastifti" hafa öll hin vanalegu einkenni hans skáldskapar. Þau eru í þrem þáttum: 1. Forðum-tíðin á undan reformazíòninni. 2. Siðbòtin—tíðin frá siðaskiftunum til loka 18. aldar, þá er Hólabiskupsdœmi hætti að vera til. 3. Nú.—Í þeim síðasta þætti vill skáldið, eftir því, sem hann segir sjálfr, spá í eyður nútíma og framtíðar. Niðrlag þess parts er svona:

,,Fögr er foldin!  
Fram með drottins merki!  
Tindra daggir af trú og von.

Nýfœdd í norðri  
náðarsól ljòmar.  
*Christe, kyrje, eleyson!*"*)

*) þ. e.: Kristr, drottinn, miskunna þú oss!

---

Hr. *Sigrbjörn Sigrjónsson*, 609 Ross Ave., er innköllunarmaðr ,,Sameiningarinnar" í Winnipeg.

---

Hr. *Magnús Pálsson*, 303½ Elgin Ave., sendir ,,Sam." út.

---

Hr. *Jón A. Blöndal*, 207 Pacific Ave., Winnipeg, er féhirðir ,,Sam."

---

— Hjá ritstjòra ,,Sam." fást nú íslenzkar biblíur og nýja testament frá brezka biblíufélaginu. Biblían kostar $1.45,nýja testamentið 60 cts.

---



---

,,SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega,12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfr Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.